# VELKOMU - STEF

VID

HEIMKOMU

PROFESSOR R. C. RASKS,

SÚNGID

í

SAMSÆTI ÍSLENDÍNGA

ÞANN 13DA MAJI 1823.

---

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTAD HIÁ HARTV. FRID. POPP.

Lag. Eldgamla Ísafold.

Adur í Ása tíd
Öl skeinkt var röskum lid,
Feingna vid frægd,
:|: Hornin og hörpur med
Hátt glumdu, nærdu géd,
Öll var þá ítum léd
Ánægiu gnægd.

Fornaldar frægan sid
Frónskir en halda vid
Nær naudsýn knýr
:|: Undrast þad ecki má,
Aptur nú féngu siá
Frægstan einn fyrdum hiá
Félags vors Stýr.

Leidángur lærdóms í,
Lofstír fær æ af því,
Burt veik á braut
:|: Fornaldar frædi-ment,
Færstum er voru lént,
Oss fær nú öllum ként,
Endud er þraut.

Íslendsku ærna fremd
Abla mun ferd hans efnd
Leingst burt um lád;
:|: Hans því vér heidrum nafn,
Honum var éngin jafn.
Aldrei þad æru safn
Eydist né dád.

Hvar helst um heimin fór,
Honum jókst vegur stór,
Verdugt sem var.
:|: Fólk allt med furdu leit,
Frægan af Dana sveit,
Hann féck í hvörjum reit
Heidur sem bar.

Heimkomin hoskur er,
Hæfir því fögnum vér,
Gledi med gnótt.
:|: Folld Ísa fagurt qved;
Frón dana hliómi med:
Málvitríng meiri séd
Man eigi drótt.

Hamíngian hiá oss blíd
Hann geymi alla tíd,
Sæmdar med safn.
:|: Ísafolld óska má,
Og Danmörk ségia já!
Leingi oss lifi hiá!
Lofsverdt hans nafn!

---